Útfarar minning

Prestsins Séra B. Sivertsens.

# Ræður

haldnar við útför

Prestsins Sira

# Brinjúlfs Sivertsens

á

Utskálum




Reykjavík,
Prentaðar í prentsmiðju landsins af Helga Helgasyni
1848.



# Ræda

flutt vid jardarför

Prestsins Sra B. Sivertsens á Utskálum

af

Stiptprófasti A. Helgasyni.

---

Sá madur, hvers lík hér er búid til moldar, fæddist 13. dag desembermánadar 1767. Fadir hans var Sigurdur landþingsskrifari, merkismadur, sem sáladist 1780, kominn af Birni Gíslasyni logmanni er skáldid Sra Hallgrímur Pétursson orti útfararminningu eptir, sem prentud finnst í því svo kallada Hallgrímskveri. Módir hans var Helga dóttir Brynjúlfs sýslumanns Sigurdssonar, sem kominn var af biskupi Gudbrandi. Sama ár, sem Sigurdur landþingsskrifari sáladist, fluttist vor framlidni ad Gørdum á Alftanesi til prófasts Gudlaugs Þorgeirssonar, þadan árid eptir til systur sinnar Jórunnar, sem þá var nýgipt Einari Brynjúlfssyni eldra. Þau hjón komu vorum framlidna í skóla 1783, er þá var haldinn í Skálholti, á fulla medgjøf, en af

því að skólahald niðurlagðist um þau árin, sem voru hallæris- og mannsækkunar-ár, svo var þeim únga manni komið til kennslu 2 ár hjá konrektor Helga Sigurðssyni. Að þeim liðnum, kom hann aptur i skóla, eða til kennslu hjá rektor Gísla Thorlacius, sem giptur var einni systra hans. Stúdent varð hann 1788 eptir 5 vetra skólagáng, sigldi sama ár og tók fyrstu yfirheyrslu við háskólann árið eptir 1789. Þau examina sem takast venjulega i heimsspeki af þeim, sem bókmenntir stunda við háskólann, voru þareptir af hendi leyst, en hið síðasta náðist ei, vegna þess að þá var kominn efnaskortur, sem hindraði lærdómsiðkana áframhald og leingri veru, svo vor framliðni kom inn árið 1795, varð prókonrektor við Reykjavíkurskóla 1796 og var við það embætti hálft annað ár. 1797 vígðist hann prestur til dómkirkjunnar i Reykjavík í stað Vídalins, sem sama ár tók við biskupsembættinu hér i Suðuramtinu; en Reykjavíkurbrauðið var honum veitt 1798. Hann giptist 1805 ekkju faktors Guðmundar Þórðarsonar Steinunni Helgadóttur og eignaðist með henni 6 børn, Helgu gipta prestinum til Hruna Sra Jóni Steingrimssyni, Sigurð, sem á næstliðnum vetri fekk Utskála prestakall, Einar, sem er stúdent i húsi foreldra sinna ásamt dætrunum Halldóru og Þórunni og svo i foreldra húsum og Guðmund, sem dó úngur. Frá Reykjavíkur prestakalli fluttist vor framliðni 1814 að Holti undir Eyjafjøllum, og þaðan aptur að Utskálum 1827; bæði þessi brauð voru honum veitt ári áður enn

til þeirra flutti. Padan burtkalladist hann 13 dag júlím. 1837, hafdi hann þá þjónad prestsembætti í 40 ár, lifad hartnær 70. Petta er, gódir brædur! þad sem mér er kunnugt af hinum helstu atridum lífs þess manns, sem hér veitti forstødu søfnudum í 10 ár, og veitti hana góda, ad sønnu á þeim seinustu, med adstod sonar síns, þared heilsubrestur og áratala leyfdu honum ekki, svo fullkomlega sem hann vildi, ad gegna án adstodar naudsynjum þessara erfidu sókna; því þad var honum eiginlegt ad vanda sem bezt allt hvad honum var trúad fyrir, allt þad, er hann fann skyldu sína ad gjøra. Til ad útvega sér hæfilegleika til þess stauds, er hann á únga aldri kaus sér, gekk hann þá venjulegu menntaleid, og hann sókti ríkisins háskóla, hvar líkindi eru til ad helzt fáist grundud þekking vísindanna; en þessa leid er ekki hægt ad fara nema tøluverdum fjármunum sé til kostad, og hér til vardi hann fødur og módur arfi svo sem hann gat tilhrokkid. Jafnframt útvegadi hann sér þá utanlands hid mesta bókasafn, er þá hafdi sést sunnanlands næst því sem assessor Grøndal átti, og þad ekki einasta í gudfrædi, heldur og í ødrum vísindum. Pessar bækur brúkadi hann líka vel og hirti ætíd vel um, svo þær gætu sem bezt vardveitst; en gódsemi hans var sú, ad hann lédi þær til lesturs hartnær hverjum, sem girntist. Eins og hann þannig á yngri árum útbjó sig sem bezt ad vard undir sína lífskøllun, svo stundadi hann hana eptir þad sá tími kom mikid vandlega. Hann mátti ekki vita ad nokkud forsóm-

adist af því er gjöra skyldi, eda nokkud væri midur af hendi leyst, heldur en bezt væru faung á. Hér til vardi hann allri sinni umhugsun og öllum krapti. Honum dugdi þad ekki, ad koma nafninu á þau verk, sem hann átti ad vinna; hann gegndi þeim med áhyggju, med hita og samvitskusemi. Þau 4 ár, sem eg gekk i skóla, var eg tvö ár undir tilsögn þessa framlidna manns, og getur mér aldrei gleymst med hvílíkri alúd hann þá, annars vidvaníngur i ad segja ödrum til og ekki gæddur lipru ordfæri, stundadi sína köllun og hélt ad sínum lærisveinum lærdómi med allri gódsemi, hvar med hann ávann sér þó ekki allra þeirra ástsemi, sem i hægdum sínum vilja ad öllu fara og i bókidna stundum ekki taka sér heiminn nærri; en þess meir var hann samt af öllum virtur i raun réttri og innilega elskadur af öllum þeim, sem höfdu hugsun á ad taka eptir hvern mann hann hafdi ad geyma, og hvernig hann vildi efla framfarir sinna lærisveina. Eg man og enn til þess, hvernig hann yfirfór þá grein af skólalærdóminum, sem vidvék kristilegum trúarsannindum; med hvílíkri andagt og gudlegum hita hann þá taladi, sem ljóslega vitnadi um ad þessi sannindi láu nærri hans hjarta; eins og eg líka ætla ad hann hafi ei forgefins talad, en þótt hann þá taladi fyrir únglingum, hverra gjálífi einatt ollir hugsunarleysi, og vid hverra ár hid andlega sjaldan sýnist eiga. Þegar hann kom til prestembættisins ætla eg honum hafi fylgt hid sama lundarlag: ad gjöra sem bezt vard öll þau verk, sem hans köllun tilheyrdi ad

gjöra, ad stunda þau med samvitskusemi, ad umvanda allstadar, hvar þess þótti þurfa, ekki framar í prédikunum heldur en heimuglega. Hann gat vissulega heimfært uppá sig þetta upphróp postulans Páls: hver hneixlast svo ad eg ekki brenn. Mest bar á þessari vidkvæmni hans framanaf hans prestsskap, þad lét hann í ljósi vid vini sína og jafnvel yfirmenn, hverjum hann var handgenginn, og þad stundum í því skapi, ad hann þóttist ei geta prestur verid; embættid væri svo vandasamt og ábyrgdarmikid, ad fáir væru til þess hæfilegir. Tillögur vina hans er líklegt hafi bent honum til þess, er áranna reynsla kennir öllum, sem med athuga gefa gaum heimsins ástandi og hlutanna edli, ad eingum manni er gefid, ad ráda vid hugsanir eda breytni manna med sínum ordum eda meiningum. Hver sem gódu vill til leidar koma, verdur ad láta sér nægja, takist honum þad vid og vid. Sjálft guds ord hefur ekki hingad til komid öllu til leidar, sem ætlandi væri ad þad hefdi getad verkad í svo margar aldir. Hver einn verdur ad hugga sig med þeirri hugsun, ad af eingum og ekki prestinum heimtast meir enn ad hann sé trúr. Hann verdur til þess ad muna, ad hans er einasta ad planta og vökva, en þad er guds eins, ad gefa ávöxtinn. Og þó ávöxturinn þróist ei fljótt, hlýtur sá, sem ætlad er þetta starf ad planta og vökva, bída í voninni, og álíta þad ekki allt til ónýtis gjört, sem á sín leingi ad bída ad í ljós geti komid; því ekki dugir ad þreytast gott ad gjöra. Þetta lærdi og vor framlidni eflaust ad kannast vid

med árunum og ervidadi því í voninni ad postulans bodi. En þó hann nú á sínum seinni árum væri eptir náttúrunnar gángi ekki eins heitur og á þeim fyrri árunum, fylgdi honum alla æfi sama einlægni og alúd í øllu, sem hann skyldi gjøra, þad var og allt vønduglega af hendi leyst; þad bar á sér merki þess, ad viljinn var gódur og einlægur med lifandi tilfinningum útbúid hjarta.

Gódsemi hans vid alla þurfandi var einlæg og innileg, og ekki mun heldur ætíd hafa verid lángur og nákvæmur reikníngur því vidvíkjandi, hvert kríngumstædurnar leyfdu þad gódverk, sem hugurinn hvatti til, því aldrei voru efnin mikil. Búshagur vors framlidna batnadi ad sønnu tøluvert þegar hann 1805 eignadist þá merkiskonu, sem eg ádur nefndi, sem bædi hafdi nokkur efni, og þad, sem enn meira var í varid, framúrskarandi dugnad til ad veita sínu húsi góda forstødu innan húss; en bædi var Reykjavíkurbraud um þad leyti, sem hann var þar prestur, ekki inntekta mikid, enda voru þá eptir 1807 þar hørd ár og høndlun svo gott sem slaufsud til 1814, er ekki gjørdi lítid til ad rýra inntekt prestakallsins; svo var heimilisfólk margt, børn fæddust hartnær árlega þessum hjónum, medan þau bjuggu á Seli, og nokkur voru í þeirra húsum af húsmódurinnar fyrra hjónabands afkvæmum; og loksins má nærri geta, hvert ei mun í hørdum árum hafa ordid brestur á gjaldi til prestsins, eda hvert fátækir muni þar ei hafa, sem slík gódsemi bjó fyrir, leitad líknar og feingid líkn, hvad allt saman-

lagt hlaut ad hafa þá verkum, ad búshagirnir yrdu svo erfidir, ad rádlegt þætti þadan ad leita. Gódsemin fylgdi vorum sáluga alla hans æfi, þad voru ekki fáir ættmenn, sem her feingu meiri hjálp, heldur en hjá miklu ríkari ættmønnum, þegar þeim á lá; ekki fáir vandalausir aumingjar, sem ekki ad eins feingu lidsinni, þegar hingad leitudu, heldur og athvarf í þessu heidursverda húsi. Unglíngar, sumir skyldir, sumir vandalausir eru í því uppaldir, menntadir, sidadir, og blessa líklega þau atvik, sem þá þángad leiddu. Samvitskusemi bygd á gudrækni, vidkvæmni mikil, gódsamt hjarta, þetta voru høfudeinkenni þess hér andada kennimanns. Med þessari nákvæmni, eins og náttúrlegt er, fylgdist tøluvert brádlyndi, einkum á hinum yngri árum, en þad brádlyndi vard aldrei ad fastlyndi. Rótin var svo gód, ad þó gedsmuna hitinn yrdi ad blossa, svo lægdi hann sig skjótt og hjartans gædska fekk fullkomid vald yfir øllu rádlaginu, ordum og verkum. Menn lærdu jafnvel ad elska þad brádlyndi, sem þannig var undirkomid og ódar en vid var litid, snérist uppi því meiri elskusemi. Þó madurinn væri þá einginn framúrskarandi gáfumadur, þó hans lærdómur væri ekki øllu meiri enn í medallagi; þá vard hann mikid uppbyggilegur í sínu standi. Hans samvitskusama alúd í því ad vanda sín verk sem bezt, hans góda og heita tilfinning og gudlega hugarfar, hans kærleiksfulla sinni gjordi hann ad gódu gudsverkfæri í kristninni, gjørdi allt hans líf lastvart, útvegadi honum elsku og afhald þeirra, sem hann

þekktu. Þeir höfdingjar, sem voru i sókn hans, medan hann var prestur í Reykjavík, elskudu og virtu hann fyrir hans alúd i því ad stunda sitt kall, og fáir sem eingir steyttu sig á hans vandlætingasemi. Almenningur elskadi hann og jafnvel nokkrir af þeim er hann snarplega umvandadi vid, því allir sem höfdu vit á ad sjá af hverjum rótum hans vandlætingasemi spratt, gátu ei annad enn tekid vel hans umvöndun, sem umbreyttist skjótt í tvöfalda elskusemi, þegar hún ávann þad, sem til var ætlad. Vesælingar heidrudu hann sem födur og höfdu orsök til þess. En eg þarf eigi ad fara hér um mörgum ordum; eg veit hann er alþekktur, og svo i þessum reit, þó hann lifdi hér ekki nema rúm 10 ár. Eg veit, þér hans sóknarmenn, hafid tekid eptir hans gudlega og rádvanda þeinkingarhætti, eptir hans alúd i því, ad gegna sinni embættisskyldu og láta allt gánga sem reglulegast til i hans sóknum. Eg veit ad nokkrir medal ydar trega hann sem födur og heidra hans minningu. Eg dæmi þad af mér, sem ad eins hálft annad ár naut hans tilsagnar i skólalærdómi, nú fyrir 40 árum, og einasta þó sem únglingur, en únglingar eru sjaldan eptirþánkasamir; eg heidra hann og elska svo sem einhvern þann hjartabezta og rádvandasta mann, sem eg á minni, ekki svo stuttu, lífsleid hefi þekkt. Eg hefi haft marga kennendur bædi hér i landi og utanlands, og eg hefi tekid eptir því ad margir af þeim höfdu miklu meiri lærdóm, voru duglegri til ad kenna, höfdu meiri námsgáfur, en engan hefi eg þekkt sem sýndi meiri alúd

i sinn kalli, og sem gegndi sinni köllun með heitara hjarta; og þessvegna hefi eg með sjálfum mér eingan meira virt; eg geri líka ráð fyrir að fleiri séu með mínu sinni; því hvað heimtist af ráðsmanninum annað enn hann sé trúr? og hver er trúrri en sá, sem leggur fram alla sína krapta, og brúkar alla alúð (kraptarnir veri nú miklir eða litlir) til að gegna lífsins skyldum. Guðs orð kennir oss þannig að meta fullkomlegleika manna, ekki eptir því hversu mörg pund þeir feingu til meðferðar, heldur eptir því hvernig þeir vorðu því lánarfé, sem þeir höfðu með að fara, og þetta eru atkvæði hins sama: þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu, eg skal setja þig yfir mikið, gakk þú inn í fögnuð þins herra.

Inní þenna fögnuð er nú fyrir nokkrum dögum geinginn vor elsku- og heiðursverði bróðir, sem var sannarlega trúr guðs þjónn í mörg ár, sem framgekk með hreinskilnu hjarta í guðs grandvarlegleika alla sína vegferð, og lét allt það gott af sér leiða, sem honum var mögulegt. Og takið nú, góðir bræður! líka eptir einu, sem eg leyfi mér að kalla forsjónarinnar leyndardóma. Þessi kista hún geymir ekki að eins lík þess manns, sem eg hefi nefnt, hún geymir og svo lík sonardóttur hans, er skömmu eptir fæðínguna í þessum dögum burtkallaðist, og sem í skírninni fekk nafn ömmu sinnar, og var nefnt Steinunn. Þegar hann hætti að hvíla hjá þeirri eldri Steinunni, svo lagðist hjá honum sú litla Steinunn. En — það er ekki það, sem hvarflar fyrir huga min-

um, heldur hitt, ad hér er í sömu kistu þad full-ordna og hid únga sakleysi. Þad er rétt eins og forsjónin hafi ætlad hér ad benda oss til þess, hvert hjartalag þessi gudsmadur hafdi, ad hans líf hafi verid eins flekklaust og barnsins, sem hjá honum hvílir; eins og hún hefdi viljad rifja upp fyrir oss þessi fögru ord ritníngarinnar: nema þér verdid sem úngborn, getid þér ekki inngeingid í guds ríki. Vorum framlidna verdur ei í fám ordum fullkomlegar lýst heldur enn med þessum ordum: hann var sak-laus sem barn og guds ríki heyrir slíkum til. Hvad segjum vér svo annad enn þetta: gudi sé lof fyrir þad, sem hann gaf og tók, fyrir hvíld þess þreytta manns, trúa guds þjóns. Hann er frá oss tekinn, en hann hefur eingan skada hreppt. En þó hann sé frá oss tekinn, svo er eptir ordin hans heidarlega minning vor á medal; mörg mannvænleg afkvæmi uppalin í gudsótta og gódum sidum, erfingjar foreldra sinna mannkosta og gudlega þeinkíngarhátts; eitt þeirra og svo erfíngi fodursins embættis, af honum menntad í því ad gegna sinni köllun med alúd; og hans verka, er þessum söfnudum nú um sinn ætlad ad njóta. Til medlima þessara safnada mundi eg nú segja, ef eg ei vissi eda þættist vita, ad sonurinn í allan máta verdskuldadi alla þeirra gódvild og virdingu, ad þeir skyldu láta hann med-fram njóta síns heidurs- og elskuverda födur; en til allra, ad sú ræktarsemi og trygd, sem ekki nær til þess fyrsta ættleggs, hún er nærsta ólík hans trygd, sem gerir miskunsemi í þúsund lidu á þeim

sem hann elska og vardveita hans bodord; og þad er ein af heilagrar ritningar markverdu hugvekjum, sem svo hljódar: ekki einasta þína vini heldur og vini fødur þíns skaltu ekki afrækja, og ef þar er rádlegt ad afrækja ei vini fødur síns, þá má þar af ráda ad síst megi afrækja vandamenn hans.

Sá framlidni er oss horfinn og hans heidarlega endurminning og fallegi ættleggur er eptir; hans dæmi er og svo eptir ordid, fagurt til eptirbreytnis øllum; því á hverju fer betur en því ad hafa flekklausa samvitsku i fyrirrúmi fyrir øllu ødru; og hverjum situr þad betur en þeim, sem skulu vera salt jardar, sem um þad eigi ad sjá ad syndarinnar rotnun útbreidist ei um heiminn. O! hversu væri óskandi, ad allir þeir, sem valid hafa sér þá lifs køllun, ad þéna ad bodum guds orda, vildu med eins einlægn hjarta stunda sina køllun, og þessi guds þjónn stundadi sina; med sømu alúd! med sømu samvitskusemi! og prýda kenninguna med eins lastvøru liferni, sem ekki er minst i varid; þá, ef margir fetudu i hans fótspor, mundi ei skuldin lenda hjá þeim, sem prédika guds ord, ad þad afrækist, ad þad verdur fyrir lasti. Ad minnsta kosti mundi ei því verda umkennt, sem svo opt hefur heyrst og sem ei verdur varid ad sé nokkud tilhæfi til, ad kristileg breytni afrækist vegna þess ad Krists nafn sé brúkad hégómlega af þeim, sem þad boda i søfnudunum. En eg læt nú hér vid lenda um þetta efni ad tala og vík nidurlagi þessarar rædu til hans afkvæma. Ydar andadi fadir eptirlét ydur ekki aud, en hann

eptirlét ydur gott mannord ad erfd og þá virdíngu og ástsæld, sem þar med fylgist. Látid ei þenna dýra arf af ydur hafa. Hann eptirskildi hjá ydur æruverda módur, sína elskuverdu unnustu, samanvid hverja hann bjó í innilegri ástsemi yfir 30 ár, og sem var hans mikilsverd, trú adstod í lífinu. Sú elska, sem ádur skiptist milli fødur og módur lendir nú hédan af øll hjá henni, sem ádur margreynd í lífsins skóla, hefur nú hér séd á bak sínum ødrum ektamaka, og sem hefur þær tilfinningar, ad litid mun hafa vantad á, ad hún fylgdi hinum fyrri í grøfina. Munid til þess hver voru þau seinustu ord, sem ydar æruverdi fadir taladi vid sínar ýngri dætur, þegar þær voru med þeirri kvenumanninum gefnu nákvæmni ad hagræda øllu hjá fødurnum: Látid þid svona vera, en sjáid til, ad þad fari vel um hana módur ykkar. Þessi ord høfdu hid næsta tillit til þess legurúms, sem módirin hafdi sér tekid, til ad vera sem næst sínum elskada lídandi manni, en þau hljóma fyrir mínum eyrum eins og rødd frá því landi, hvert vér allir stefnum, hvadan einginn hefur aptur komid, og benda til, hvad þad var, sem þeim framlidna var mest annt um eins á deyjanda degi, eins og þau ár, sem þau saman bjuggu; en eg minnist ei þessara orda af því, ad eg efist um, ad nokkud af þeirrar æruverdu módur morgu afkvæmum muni láta sitt vanta til þess ad gledja og annast hana. Eg þykist vita ad hvert þeirra í sinn stad mun reikna þad happ og gledi sína, ad geta hana glatt, heldur átti þetta ad benda til þess, hvad

þeim framliðna var annt um sína unnustu og svo í sínu andláti.

Nú friður sé með hans moldum! blessuð sé hans endurminning! Þú drottinn, sem gefur framliðnum ró, gef þú og líkn þeim, sem lifa!

---

# Stutt ávarp

vid líkkistu

Prestsins Sra P. Sivertsens á Utskálum

af

Stjúpsyni hans

Dómkirkjupresti **H. G. Thordersen.**

---

Þegar eg lít á það, hvað sá madur á skilid, sem hér liggur nú lík innan þessara náfjala; þegar eg hugsa úti hvað eg á honum að þakka, þá finnst mér það vera skylduverk að mæla fáein orð yfir moldum hans.

En þegar eg aptur lít á hitt, hvað eg var honum nákominn og á mína eigin tilfinning, virdist mér það að vísu skylt, en mér þó ofvarið, einkum þegar eg lít til þeirra, sem hér eru ásamt mér viðstaddir með tregandi og sútfullum hjörtum, medal hverra er heittelskuð móðir, sem hér stendur beygð af árum og margskonar reynslu, er hún nú ofaná aðrar lífsins mæður, í annað sinn má sjá á bak elskuðum ektamaka — Eg vil því leitast við að hepta mína eigin viðkvæmni, en hvetja bædi mig og adra til að taka þessum atburdi med auðsveipni við þann,

er sendir, eptir sinum vilja, líf eda dauda. Daudinn hefur hér ad vísu sært mørg elskandi hjørtu djúpum undum, og fjærri sé mér ad vilja med øllu hindra þau tár, sem svo eru helgud af hreinum ástaranda, því hver þekkti þann sáluga, sem ei elskadi hann og virti, og þá má nærri geta hversu innilega þeir munu hafa elskad hann, sem honum stódu næstir. Þau tár eru því réttvís, sem falla á hans leidi. Sú skilnadarins sorg réttvís, sem fyllir svo margra brjóst. Sú hluttekning réttvís, sem vottar sig í hjørtum svo margra nærstaddra.

Eg ætla mér ekki ad lýsa þeim framlidna, en þakklátseminnar tilfinning krefst þess af mér, ad eg láti þad heyrast hvílíkur hann var mér og stjúpbørnum sínum ødrum, hverjum hann øllum gekk í fødur stad — En vid systkyn urdum øll fødurlaus á únga aldri — þá tók hann okkur á armleggi fødurlegs kærleika og bar umhyggju fyrir æskuárum þeirra af okkur, sem ei ádur voru hjá fósturforeldrum. En einkanlega átti eg, sá einasti sonur, honum mikid ad þakka. Eins og hann elskadi mig mikid, eins fyrirgaf hann mér mikid, og eg gleymi aldrei hans vidkvæmu sorg, er hann, søkum ólystar minnar til lærdóms, eittsinn sagdi vid mig: „Eg vildi þó hafa gert módur þinni þad til ánægju ad koma þér til manns". Satt ad segja geymdi eg líka þessi hans ord í hjarta minu, og verd ekki eldri madur en eg man til þeirra — eins og þau líka minna mig á þann sannleika, ad hjartanleg ord vid barn og únglíng meiga sér opt meira til lagfæríngar, en hørd

og hoftug adfinning. Þannig lét hann sér annt um mig, fullkomlega eins og hans eigin sonur væri, og hann elskadi mig ei sídur — og honum á eg ad þakka ad eg komst til nokkurrar menningar. Um hans dæmi tala eg ekki, því jafnan þegar um gódan mann og hreinskilinn er talad, dettur mér stjúpfadir minn í hug, því eg var svo leingi hjá honum, en hann var ekki dulur, og hægt ad lesa í sálu hans. Einnig dettur mér hann í hug, þegar eg hugsa um þann prest, sem bædi er reglumadur í embættisverkum sínum, samvizkusamur og líka prýdir kenninguna med óstraffanlegu framferdi. Eg hefi því átt mikid í honum, bædi fodur og vin og leidtoga, og eins og eg átti mikid, svo hefi eg líka mist mikid. Þó hefi eg ei mist endurminninguna, hún mun jafnan fylgja mér og opt leida mér fyrir sjónir ímynd einhvers hins bezta manns, samvizkusamasta kennimanns, ástríkasta fodurs, og med þessari háleitu huggun mun eg ætíd hugsa mér burtför hans. Þad sem eg hefi hér sagt um hans elsku til mín, nær eins til systkyna minna, hann var þeim ollum jafngódur, blídur og ræktarfullur fadir.

En — gleymi eg þá hornum annara? gleymi eg þá módur minni, sem hér tregar bezta mann, er hana virti og elskadi umfram allt á jordu? gleymi eg þá harmandi og ræktarfullum bornum, sem vita hvad þau hafa mist, eins og þau vissu hvad þau áttu? Onei! en eg treysti mér ei til ad minnast á þeirra soknud, og eg vildi ei vera hingad kominn til ad ýfa hann, heldur, ef ske mætti, til ad lina tár-

um minnar oldrudu og mæddu módur, sem svo opt hefur grátid yfir æskuárum mínum.

Athugum þá sameiginlega ad eigi vor tilfinníng og vidkvæmni vid burtför vorra ástvina ad vera rétt og eins og sæmir, þá má hún ekki einasta vera bundin vid vort eigid tjón. Vér eigum líka ad hugsa úti þann ávinníng, er þeir hafa, er vid oss skilja og dyggilega hafa baríst, vardveitt trúna og góda samvizku, og sú hugsun á ad uppljóma oss sorgarinnar nóttu med huggunarinnar himnesku geislum.

Vér viljum því upplypta augum vorum frá gröf hins fullsæla til enna ædri stadanna, sem hann er kominn til, og þér hjartkæra módir og systkyni! viljid ei svo hryggjast útaf missir ykkar, ad ei gledjist um leid útaf hans ávinníngi. Vér vitum ei hvers vér bidjum, þegar vér óskum ad sá framlidni hefdi mátt lifa leingur medal vor; og vér drögum sjálfa oss syrgjandi á tálar, þegar vér förum ad reikna þau árin, sem hann hefdi kunnad ad lifa medal vor. Ekki þarf ad aumkva þann framlidna, hann er sæll. Tárin eru oss gefin til ad létta hjartans þýngslum, þau eru vottur vors eigin veikleika. Vér grátum voru eigin hag, en í sjálfu sér er gledilegur hagur þeirra, sem í drottni deyja, af því þeir hafa lifad drottni.

Adgætum einnig ágæti hins framlidna. Hann var sínum ektamaka trúfastur leidtogi og unni honum med stökum kærleika. Eins og Kristur elskadi söfnudinn, svo elskadi hann sína eiginkonu, og hefdi

getad látid sitt líf fyrir hana. Börn sín vildi hann hafa menntud í öllu gódu og uppbyggilegu. Öll- um sínum hjónum var hann blídur og nákvæmur húsbóndi. Eins og gódur hirdir bar hann ástríka umhyggju fyrir sóknarbörnum sínum, hvar sem hann mátti því vid koma var hann forsvar ekkjunnar og fadir födurleysingjanna. Hann var á sínum tíma álitinn einn af landsins ágætustu kennifedrum. Hver- vetna var hann í heidri og metum hafdur af öllum gódum mönnum, því fremur sem þeir kunnu ad meta andans og hjartans kosti. Hann lifdi alla sína æfi í fridi minnugur postulans orda: Ef mögulegt er, þá hafid frid vid alla menn; hann galt og aldrei um æfi sína nokkrum manni illt fyrir illt. Pad kær- leikans ord, sem munnur hans prédikadi, framkvæmdi hann líka med verki og sannleika. Hann gat ekkert aumt vitad, né séd nokkurn synjandi frá sér fara. Hans hreinlyndi var af öllum vidurkennt eins og sjaldgæft, og hans brádlyndi var eins og barnsins svo saklaust, ad einginn kunni ad reidast því. Eg vil nú spyrja: er sá aumkvunarverdur, sem þannig deyr? þurfum vér nokkud hans vegna ad gráta? Onei! vér grátum þá vorn eigin missir — en elsk- an heimtar, ad vér ekki lítum einasta á vort eigid, heldur einkum á annara, á þeirra sem vér elskum og vitum ad eru sælir, og vér mænum á eptir þeim med þeirri ósk: ad vér eptir fullkomnad dagsverk mættum deya eins og þeir, med því ad lifa eins og þeir. Svo mænum vér eptir þessum fullsæla, eink-

um vér hans børn, og bidjum gud: ad vor daudi megi verda sem daudi hins réttláta. Svo mænir eptir honum harmþrúngin ekkja, hún veit ad sú góda sál er geymd hjá gudi, og hlakkar því til samfundanna óslitanlega fagnadar, og hún veit ad þad drottins ord á hér heima: Innan litils tíma!

Athugum einnig allir vér, sem syrgjum, aldur og heilsubrest hins framlidna. Hann var ordinn vid sjøtugt, og má þad heita hár aldur, sem færri ná, þá er hjá flestum, þó heilsugódir séu, dagsverkid úti; úr því er ei heldur ad búast vid neinni sérlegri ánægju af lifinu, en hitt algeingast, ad þá er i vændum ellinnar krøm edur kararsæng. Þann þreytta — og þreyttir fá menn ordid á skemri tíma — lángar þá til ad fá ad hvílast, hann lángar til ad fara hédan og vera med Kristi, því fremur sem hugurinn segir honum ad nú geti hann ei leingur unnid, ei leingur ordid eins uppbyggilegur og hann vildi.

Ekki var hér einasta hár aldur heldur veikur líkami. Frá því eg þekkti hann — og eru sídan yfir 30 ár — var hann jafnan brjóstveikur, og þá mundu menn varla hafa ætlad, ad hann nædi svo háum aldri. Umhyggjusemi, útbúnadur og elska nákvæms ektamaka hefur, med guds hjálp, leingt hans lífdaga. Altaf var hann samt óhraustur, einkum sín seinustu ár, svo útséd var um varanlega heilsu framar, og þó vér nú, eins og verdugt er syrgjum hann sem vér elskum, þá ætti þó sá huggunarríki

þánki ad sameinast sorginni og draga úr henni: hann hefur strídid útendad, þau bönd, sem krepptu veikan líkama, eru slitnud. Líkamans leyfar eru lagdar í þögula grøf, en sá ædri partur er inngeinginn í híbýli fridarins.

Loksins viljum vér hyggja ad hans burtför, ad því seinasta augnabliki, sem vér annars berum svo mikinn kvída fyrir. Í lángri legu, sem sjaldan virtist þjáningarmikil, fjaradi lífskrapturinn, og loksins slokknadi blídlega þad ljós, sem aldrei hafdi bálad upp, heldur lýst med hægri og blídri birtu. Hans augu apturluktist eins og þess þreytta erfidismanns, sem búinn er ad bera hita og þúnga dagsins. Böndin hans lífs leystust þannig hægt og hægt og hann hélt ræni fram í andlátid, svo vér einnig í þessu tilliti mættum óska, ad vor daudi yrdi sem hans.

Þess vegna viljum vér í sorg vorri ekki gleyma því, ad þó vér hofum mikils mist, þá hefur vor sæli ástvinur mikid unnid. Vér syrgjum útaf hans vidskilnadi, en umskiptin gjøra hann þó sælan; þetta huggi oss, eins og hitt, hver og hvílíkur madur hann var í lífi sínu, ad hann nidursádi gódum verkum, mun því uppskera eins og hann nidursádi. Med rósemi og fridi er hann skilinn vid sína elskendur, og med þakklæti fyrir þá elsku, sem þeir veittu honum á lífsveginum, og þad var sem segdi hann deyjandi: „Sjá eg dey, en gud skal vera med ydur“. Þannig sagdi hann vid sinn elskada maka: „hér rétti

eg þér á skilnadartíma mína hönd til sælla samfunda og fel þig á medan vardveizlu hins óendanlega kærleika. Ydur mín kæru börn og stjúpbörn! hefi eg fóstrad og uppalid med födurlegri umhyggju medan eg gat; nú mun fadirinn yfir allt, sem börn kallast taka vid, og hann mun med almáttugri ástarhendi leida ykkur á lífsins hálu vegum, þar til eg aptur fæ ad umfadma ykkur í guds ríki. Ydur, adra venslamenn og vini, kved eg, eins og vinur, og vona um skamt ad sjá ykkur aptur."

Þessar og því líkar blídar tilfinningar fylgdu honum inní eilífdina, hvar erfidid fær sín laun, sá þreytti ferdamadur hvíld og hvar sá trúi þjónn fær ad inngánga í herrans fögnud. Þángad er hann kominn, hafinn yfir sorg og andstreymi. En — vér, sem enn þá berum hita og þúnga dagsins, vér, sem med vorn kross á herdum oss, gaungum stynjandi reynslunnar veg og megum grátandi sjá vora vini hverfa burtu frá vorri hlid — vér viljum samfagna honum, sem nú er sæll, frelsadur frá allri mædu og inngeinginn í fögnud síns herra. Látum oss lifa eins og hann, til ad geta dáid rólega og fridsamlega eins og hann. Látum oss þannig fylgja hans eptirdæmi, ad vér med því ad hugsa úti þad, sem hann var, getum haft þá glödu von, ad verda þad, sem hann er. Og þegar þar ad kemur, ad vér megum flytja vorum ástvinum þá sorgarfregn: „Sjá eg dey" þá gef gud, ad vér fáum med sama trúnadartrausti, og sá framlidni, hughreyst maka, börn og

vini með þessu huggunarinnar fyrirheiti: „Guð skal vera með yður“.

Hjartkæra móðir! eg treysti mér ei til að ávarpa yður, eg hefi umflúið það, því eg vissi það bataði hvorugt okkar. Einasta þessi orð: „Guð mun vera með yður“.

Kærust systkyn! geymið minningu bezta föðurs, að hún megi jafnan lýsa ykkur á veginum, og ef þið gángið í hans fótspor, þá er eg þess öruggur, að á ykkur mun rætast sú föðurlega bæn: „Guð mun vera með yður“.

Hér hvíla leyfar hins framliðna í þessari kistu, og hann faðmar þar í dauðanum það nafn, sem honum hafði verið kærast í lífinu. Saklaust úngbarn elskaðs sonar hvílir þar hjá honum ímynd uppá hans eigið sakleysi, sakleysi, sem hélst óraskað svo lánga æfi og óspilt af heiminum, að til þess munu að eins finnast fá dæmi.

Við skiljum þá hér ástkæri stjúpfaðir, þú föðurlegi vin og leiðtogi æsku minnar! þú ert héðan farinn til þeirrar sælu, sem heitin er trúlyndum þjónum. En eg fer héðan til þeirrar baráttu, sem á að reyna trúskapinn. O að eg mætti flytja héðan með mér þitt dæmi! Þín minning skal vera mér allajafna heilög og hvorki fyrr né seinna skal mér gleymast hvílíkur þú varst mér. Þakklætissemi mín skal vera svo leingi sem eg lifi, og bæði í embætti mínu og þar fyrir utan mun eg leita mér styrks

af því ad hugsa til þess dæmis, sem þú med kostgæfni þinni og árvekni gafst mér.

Med fögrum tárum sonarlegrar ástar kved eg þig hér og beygi mig í sannri audmýkt undir guds vilja og rádstöfun, sem allt lætur þéna þeim til góds, sem hann elska. Amen.



Geinginn er til guds hvíldar
Trúr þjón allt til daudans
**Brinjólfur** prestur **Sivertsen**
Fæddur á Hlídarenda 13. Dec. 1767.
vígdist dómkirkjuprestur til Reykjavíkur 1797
giptist 1805
**ekkjunni Steinunni Helgadóttur**
ekkju nú í annad sinni
med hverri hann átti fimm eptirlifandi børn.
Hann vard prestur ad Holti undir Eyafjøllum ár 1813,
og sídast ad Utskálum ár 1826
Hvar hann deydi 13. Júlí 1837.

---

Hér var samvitskusemi og hjartagædska.
Alúd og regla i embættisstørfum.
Eins og hjá barni saklaus sál,
Frómlundud, einlæg, ótortryggin.—
Lengi mun getid hins góda,
Getid af børnum og stjúpbørnum,

Af þeim er orðs hans og eptirdæmis nutu,
Þeim voludu sem brauð' hann býtti,
Og sóknum sem gráta góðann hyrdir.

---

Fadir kæri! fridar þánkinn sá:
Ad gödri sálu þér af gudi veittri,
Getur skilad dygdum fridum skreyttri
Hún skemdist ekki skeidi lifsins á.

Svo setti ógleymanlegum og besta stjúpfødur,

**H. G. Thordersen.**



